Tvö ákvörðuð tímabil hins Konúnglega Norræna Fornfræða-Fèlags eru þegar á enda kljáð, og þess tilveru sex fyrstu ár þannig útrunnin, að það með ánægju getur litið til liðinnar tíðar. Fèlagið hefir verið svo heppið að lúka töluverðum hluta þess starfa, er það í öndverðu hafði ályktað af hendi að leysa, þar fimtán Bindi af sögum, í aðalriti eðr útleggíngum, nú af því, auk annara ritgjörða, eru á prent útgefin.

Nú sem stendur eru Fèlagsins reglulegu innlendu limir 232 að tölu, og þess fasti höfuðstóll er vaxinn til 3,000 Ríkisbánkadala í silfri.

Hans Hátign Konúngurinn, sem á árinu 1828 leyfði Fèlaginu, til merkis þarum, að þess iðnir fèlli honum vel í geð, að kalla sig „konúnglegt", hefir og árinu eptir, 1829, allranáðugast veitt því 300 Ríkisbánkadala árlegan styrk, um næsta fimm ára tíma. Einnig hefir hann, 1830, lofað Fèlaginu að standa allan kostnað til ritunar og útvegunar margra fornra skjala, viðvíkjandi Danmerkur sögu og ásigkomulagi á tíð Margrètar drottníngar og hennar næstu eptirfylgjara í ríkisstjórninni, sem geymast í því Konúnglega Praussiska leyndarskjalasafni í Königsberg, eptir því sem þess vörður, Fèlagsins útlendi meðlimur, Prófessor Voigt, hefir því til kynna gefið.

Um Fèlagsins ástand og athafnir hljótum vèr annars að vísa til nákvæmrar skírslu þarum, hvör samin er af þess fyrrverandi Forseta, Herra Ofursti-Löjtenant *v. Abrahamson,* (hvörs alúðlega og ítarlega kostgæfni til þess velferðar viðurhalds og eflíngar ávallt ætti þakklátlega að viðurkennast af hvörjum þess einlægum og fölskvalausum vini) — svoog til reiknings vors fyrir árið 1830, hvörn vèr nú sendt höfum sèrhvörjum fèlagslimi, og þaraðauki öllum Sýslumönnum og Próföstum á Islandi. Að vísu hefir Fèlagið, af Konúngsins náð og almennings velvilja, er sameginlega styrkja þess efni, nú hlotið góðan stofn, og vonar einnig að hann enn fremur þróist og blómgvist á ókomnum árum.

I Fèlagsins Fornritanefnd er sú breytíng skeð, að Hra. Þorsteinn Helgason, (sem í fyrra sumar veik hèðan til Islands), og Hra. Kateket Þorgeir Guðmundsson, (er hefir sig úr henni sagt), ej fremur eru hennar limir; — í þeirra stað erum þarámót við undirskrifaðir, Finnur Magnússon og Rasmus Rask, innkomnir í tèða nefnd, eptir tilmælum hennar talsmanns og Fèlagsins þartil gefnu samþykki.

Vèr notum þettað tækifæri til að endurnýa eldri ávörp til lysthafenda, er eignast vilja Sögur þær, sem Fèlagið þessu næst ætlar að láta á prent

útgánga. I vissri von um velvild Yðar og ljúft fulltíngi til frama þessa fyrirtækis, sem miðar til að forða föðurlandsins fornfræðum og forfeðranna minníngu frá gleymsku og glötun, leyfum vèr oss að senda Yður innlagt boðsbrèf, viðvíkjandi Fornmanna-Sögum með þeirri vorri bón, að þèr leitizt við að hvetja þá af vinum Yðar og kunníngjum, er í nánd við Yður búa, til að skrifa sig fyrir sögum þessum, svo að hið heiðvirða Island, sem frá öndverðu hefir þeim á loft haldið, ej verði framvegis varhluta af þeirra tilhlýðilegri útbreiðslu; — í þessum tilgángi er einnig verð bókanna ákvarðað lægra fyrir Islendínga enn aðra, og að vísu svo lágt sem að skaðlausu má verða.

Hvör sem þannig útvegar loforð kaupanda, rituð á tèð boðsbrèf, og síðar sendir hlutaðegendum verð bókanna, eignast sjálfur hvört sjötta exemplar ókeypis, — en þaraðauki álítum vèr oss skylduga til að láta vora og Fèlagsins þakklátsemi í ljósi, við þá sem aðstoða þess viðleitni til norrænnra fornfræða viðurhalds.

Til að lètta sèrhvörjum söguvin á Islandi útvegan þess sagnarita, munum vèr fyrst um sinn einúngis framhalda útgáfunni af þeim svonefndu Fornmanna-Sögum (hvörri ej mátti á frest slá, sem Fèlagsins aðalverki frá öndverðu), svo að almenníngi þar ej bjóðist meir enn eitt bindi af söguútgáfum Fèlagsins til kaups á ári hvörju.

Loksins vogum við tveir, Finnur Magnússon og Carl Christján Rafn, að fela Yður á hendr, til beztu ummæla og leiðbeiníngar, innlagt boðsbrèf til þeirra er eignast vilja þær Grænlendinga-Sögur er það umhljóðar, og við í sameiníngu ætlum að láta á prent útgánga. Á yðar og annara þessa fyrirtækis velunnara aðstoð byggjum vèr þá von að það framkvæmt verði, og ætlumst þá til að það verk, á sínum tíma, muni greiða fyrir endilegri úrlausn þess vafasama spursmáls, hvar Grænlands fornu bygðir legið hafi, og hvörjar menjar þeirra innbúar þar hafi eptir sig látið.

Öll brèf, viðvíkjandi Fèlaginu og þess hèreptir útkomandi ritgjörðum, óskast send þess Sekretèra, *Prófessóri Rafn,* hèr í staðnum *„Kronprindsensgade Nr. 40."*

Kaupmannahöfn, í enu Konúnglega Norræna Fornfræða-Fèlagi, þann 4da Mají 1831.

*J. F. W. Schlegel,* Forseti. — *Finnur Magnússon,* Aukaforseti. — *C. C. Rafn,* Sekretèri.

*J. F. Magnus,* Fèhirðir. — *R. Rask;* Medlimr Fornritanefndarinnar.